Gísli Egilsson

# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

8. árg. WINNIPEG, ÁGÚST 1893. Nr. 6.

## 42. DAVÍÐS SÁLMR.

Eftir séra *Valdemar Briem.*

---

Sem hjörtr í skóginum þreyttr og þyrstr,
er þráir í rennandi vatnsstraum að ná,
eins þrái eg, guð minn, í líkn þína lystr,
úr lifandi vatnsstraumum svölun að fá.
Þú, sála mín, þráir,
að svölun þú fáir
úr eilífum lindum, sem aldregi þrjóta,
en ætíð frá lifandi hjarta guðs fljóta.

Þótt gráti' eg um daga, þótt gráti' eg um nætr,
mér geta' ekki svalað hin brennandi tár.
Guð, hugga þú barn þitt, er hástöfum grætr,
og hendinni strjúk þú um tárvotar brár.
Heyr fossana bruna,
heyr bylgjurnar duna;
þær æsast og hamast og yfir mig streyma;
ó, ertu mér, drottinn minn, búinn að gleyma?

Þá aðrir í musterið ganga með gleði
og glaðir þar hefja sinn fagnaðarsöng,
þá ligg eg hér einmana bundinn á beði,
mér biðin finnst þreytandi, tíðin svo löng.

þá lofgjörð þeir syngja
og klukkurnar klingja,
mín lofgjörð er andvarp, minn ómr er stuna;
eg aðrar má fegurri tíðirnar muna.

Ó, hví ertu, sál mín, svo hnuggin og stúrin?
þín hjálp kemr bráðum, því rólega bíð.
Sjá, bráðum er hjá liðin skruggan og skúrin,
þá skín aftr sólin svo fögr og blíð.
Sjá, stundirnar líða,
og stutt er að bíða,
unz aftr þú fagnaðarhátíð munt halda
og heiðr og lof þínum frelsara gjalda.

---

## *NÝ KRISTILEG SMÁRIT.*

Eftir séra F. J. Bergmann.

---

Í fyrra var farið að hefja máls á því í „Kirkjublaðinu“, hvað orðið myndi af smáritasjóð, þeim, er séra Jón heitinn lærði í Möðrufelli stofnaði skömmu fyrir andlát sitt (1846). Hafði hann falið sjóð þennan umsjón hins nafnkunna Hernhúta-félags. Vissu menn, að sjóðrinn var upphaflega 1000 ríkisdalir að upphæð. Biskup skrifaði því forstöðumanni Brœðrasafnaðarins í Kaupmannahöfn og fékk það svar, að 2000 krónur væri þar í vörzlum í konunglegum skuldabréfum. En svo er að sjá sem lítið hafi orðið úr vöxtunum síðan sjóðrinn var stofnaðr, að öðru leyti en því, að fáein smárit hafa síðan verið gefin út. Hér eftir er líklegt, að hugsað verði meira um, að sjóðr þessi, sem stofnaðr var af svo miklu göfuglyndi og svo miklum kærleik til kristindómsins, komi að einhverjum notum á Íslandi. Enda hefir nú þegar fyrsta tölublað af ofrlitlu nýju riti, er nefnist: „Ný Kristileg Smárit“, birzt að tilhlutun biskupsins yfir Íslandi. þetta nýja rit á að verða fylgirit með „Kirkjublaðinu“. það er undr lítið vexti og á að koma út með „nokkrum örkum á ári“. Forstöðumaðr Brœðrasafnaðarins í Kaupmannahöfn hefir, eftir tilmælum biskupsins, fallizt á, að láta árlega af hendi vöxtu sjóðsins til útgáfu slíkra smá-

rita, samkvæmt hinum upphaflega tilgangi stofnandans, og virðist það nú ekki nema algjörlega sjálfsagt. En svo er að sjá sem vextirnir hrökkvi eigi, hversu smávaxin sem þessi nýju Smárit eru, til útgáfukostnaðarins. Og hefir því útgefandi „Kirkjublaðsins“ tekið að sér borgun þess, sem til vantar, enda styðja þessi fyrirtæki, „Kirkjublaðið“ og „Ný kristileg smárit“, þá hvort annað, og fer auðvitað ekki nema vel á því. Smáritin eru í þessari núverandi mynd sinni svo lítil, að þau geta að eins verið einhversstaðar til uppfyllingar.

Innihald þessa fyrsta tölublaðs Smáritanna eru 4 örstuttar smásögur, en allar eru þær fremr vel valdar. Hin fyrsta og lengsta þeirra er kristniboðssaga frá Kína. Vér efumst ekki um, að lestr slíkra smásagna geti haft nokkra þýðing, einkum fyrir börn. Hjá fullorðnu fólki geta þær einnig vakið góðar hugsanir um leið og þær eru lesnar, þótt oss hafi ætíð fundizt, að þau áhrif myndi vera fremr hverful. Öðru máli er að gegna, þar sem líkum sögum og þessum er vel komið fyrir í ræðu, hvort heldr munnlega fluttri eða prentaðri, til skýringar og áherzlu einhverju vissu atriði. Þá eru þær eflaust eitt hið sterkasta verkfæri mælskunnar til að sannfæra og negla þann sannleik fastan í meðvitundinni, sem ræðumaðrinn er að fara með. En þetta leiðir oss aftr til að spyrja, hvort ekki hefði verið réttara að verja þessu fé til að prenta eina eða tvær lengri ritgjörðir, frumsamdar af þar til hæfum mönnum, um kirkjuleg og kristileg efni. Oss virðist það myndi hafa verið enn meir áríðanda; áhritin myndi hafa orðið meiri og varanlegri, ef vel hefði verið á haldið. Ef til vill verðr oss svarað því, að ómögulegt hefði verið, að fá neina slíka ritgjörð, þar sem ekki hefði unnt verið að borga nein ritlaun. En þá er nú illa á statt í kirkjunni íslenzku, ef enginn af guðfræðingum landsins skyldi vilja leggja það á sig, að semja svo sem eina ritgjörð á ári um eitthvert brennandi spursmál, sem uppi er í kirkjunni og meðal kristinna manna, án þess að heimta borgun fyrir. Enda álítum vér, að orsökin hefði fremr orðið sú, að fáir hefði fundið sig menn til þess. Til þeirra hluta ætti nú biskup landsins að vera allra manna færastr. Hann ætti að þekkja hið kirkjulega ástand í landinu betr en aðrir, og ótal efni í lífsnauðsynlegar hugvekjur ætti að koma honum í hug á visítazíu-ferðum hans yfir

landið. Hann hefir líka sjálfsagt betra tóm til slíkra ritstarfa en flestir aðrir. Sést það bezt á fjölda þeirra bóka, er liggja eftir Pétr biskup Pétrsson. Ótal smábœkr hafa verið gefnar út af biskupum og helztu guðfrœðingum Englands, er nefndar hafa verið „*Tracts for the Times*“ (smárit fyrir vora tíma) eða „*Living Papers for Present Day Themes*“ (smárit um lífsspursmál vorra daga). Og hafa þessar litlu bœkr að almannadómi komið mjög miklu góðu til leiðar. Þær hafa verið ritaðar á svo léttu og auðveldu máli, að allir þeir, sem nokkuð lesa og nokkuð fá sig til að hugsa, hafa haft þeirra fyllstu not. En auðvitað eru þó slíkar bœkr ritaðar fyrir lesendr, sem meiri þroska hafa náð en þeir, sem mest hafa gaman af smásögum. — Þá er farið var að hreifa við smárita-hugmyndinni gömlu, héldum vér, að eitthvað líkt þessu myndi vaka fyrir mönnum. Og því varð oss hálfhverft hið, þegar vér sáum þessi nýju smárit. Það hefði fallið heldr í vorn smekk, að þessar fáu arkir hefði verið gefnar út í heilu lagi, eitt sinn hvert ár, og haft þá eitthvað heilt meðferðis, er varanlegt mætti verða í vorum kirkjulegu bókmenntum. Reyndar viðrkennum vér, að smásögur eins og þær, sem valdar hafa verið, geta haft ofr-litla þýðing. En bókmenntalega þýðing getr útgáfa slíkra smárita enga haft. Það er svo ótal margt, sem þyrfti að rita, og kirkjunnar menn verða að hugsa um það, að hefja hinar kirkjulegu bókmenntir vorar til þess vegs og sóma, sem þeim að réttu ber. Á voru máli hefir því sem næst ekkert verið ritað til þess að frœða alþýðu manna um heilaga ritning, og afleiðingin er sú, að íslenzk alþýða er mjög ófróð í því efni. Myndi hún þó hafa tekið fúslega við þeim fróðleik, ekki síðr en öðrum, ef hann hefði verið á boðstólum hafðr. Hversu þarflegt og blessunarríkt myndi það verða fyrir kristindóminn í landinu, ef gefin væri önnur eins rit út á íslenzku og þau, er prófessor dr. Fredrik Nielsen í Kaupmannahöfn hefir gefið út handa danskri alþýðu nú um nokkur undanfarin ár. Vér getum ekki annað séð en eitt slíkt rit á ári hefði haft miklu meira andlegt gildi en nokkrar arkir af smásögum, sem helzt munu ætlaðar börnum og unglingum. Slíkar smásögu-bœkr í líking við þær, er hinn nýlátni biskup Íslands gaf út, munu vera eitt af því, sem bezt gengr út og hœgast er að fá nóga kaupendr að. Það ætti því ekki að þurfa að gefa þær út á kostnað neins sjóðs.

Og frá bókmenntalegu sjónarmiði skoðað, virðist það nærri því of-lítilfjörlegt starf fyrir einn biskup að þýða smásögur — þann af öllum embættismönnum kirkjunnar, sem bezt tækifæri hefir til að hefja bókmenntir hennar til vegs og sóma og mesta skyldu til að ræða og rita um þau kirkjulegu spursmál, sem stærst eru og þýðingarmest. Ritað í Júní.

---

## SÁLMR.

Eftir séra *Lárus Halldórsson.*

---

Sem ár í ægi falla,
en aldrei fylla þó,
svo flytr æfin alla
í opinn dauðans sjó.
Sem alda öldu rekr
um öll hin miklu höf,
af kynslóð kynslóð tekr
við kransi lífs og — gröf.

Hvað er þá æfin manna?
Eitt öldu lítið brot
er samlíkingin sanna
við sérhver æfiþrot.
Hvað fegrð, heilsa, friðr?
hvað frelsi, heiðr, gnótt?
Einn ljúfr lækjarniðr,
sem líðr, hverfr skjótt.

Svo æfin ótt fram líðr
sem alda berst á sand,
og lækr fagr, fríðr,
sem fer um blómlegt land.
Svo óðan enda tekr
það allt, sem lifir hér.
Ó, maðr synda sekr,
það sjá, og gæt að þér.

Í dag þig drottinn styðr;
en dauðinn kemr greitt;

þá úti' er allr friðr
og undanfœri' ei neitt.
Því tak þitt ráð í tíma
og trúðu Jesúm á.
Ei dauðans grimma gríma
þig getr sakað þá.

Þótt lífið all-skjótt endi
og engin stund sé tryggð,
vors góða guðs í hendi
vér göngum ei með hryggð.
Ei fellr fugl til jarðar,
ef faðir vill ei sá.
Við raunir heljar harðar
vér herrann treystum á.

Þótt æfi óðum ljúki,
vort athvarf guð er víst.
Þótt flest í skjólin fjúki,
vor faðir bregzt oss sízt.
Hann oss kann vel að verja,
hann veitir trygga hlíf.
Þá dauðinn harðast herjar,
vér höfum eilíft líf.

Sem bliknar blóm í éli
og beygir höfuð frítt,
mig, faðir, veit eg feli
við feigðarélið strítt
í þínar hendr þýðar
og þína mjúku hlíf.
O, herra, hér og síðar
mitt hjartans vertu líf.

Í grafardjúpið dimma
vor drottinn Jesús gekk.
Hann deyddi dauðann grimma
og dýrðar-sigr fékk.
Nú dauðinn svefn er sœtr

og signuð hvíld í gröf,
unz drottinn ljóma lætr
oss lífsins dýru gjöf.

Vor Jesús ljúfr lifir
og leiðir oss við mund,
svo dauðans öldu yfir
vér á hans komumst fund.
Hann vill, að séu sínir
hjá sér um eilíf ár.
Svo vel er, vinir mínir;
það víst má þerra brár.

Vor drottinn dýrðarhái
vort dauðlegt lífgar hold,
svo friðarfundi nái,
þó fyrst það verði mold.
Oss skilr skapadómr
á skilnaðarins stund,
en hvellr lúðrhljómr
oss heimtar á þann fund.

Í Des. 1892.

---

*UM ANDLEGAR HORFUR HJÁ ÞJÓÐ VORRI*

ritar einn háttvirtr vinr vor heima á Íslandi þannig í bréfi til vor frá því í Maímánuði:

„það þykir mér mjög miklu máli skifta, að þeir menn, sem halda fast við kristindóminn í öllu verulegu, haldi sem mest saman, þó að þeir hafi mismunandi skoðanir á ýmsum hinna smærri trúaratriða, eða að minnsta kosti varist mjög að lenda í deilum, svo að eigi skemmti þeir óvinum kristninnar með sundrlyndi. þessa er, virðist mér, sérstaklega þörf nú, þar sem svo er komið hjá oss, að fylking vantrúarinnar er á þessum tíma öflugri, áræðnari og áleitnari en nokkru sinni áðr. Með þessu á eg auðvitað langhelzt við hinn skólagengna lýð, því að allr þorri alþýðumanna, í mörgum héruðum landsins að minnsta kosti, eða víðast til sveita, þar sem eg þekki til, heldr enn við sína gömlu trú, þó að hún að vísu sjálfsagt sé daufari en vera ætti. En næstum því öll „pressan“ er nú orðið í höndum vantrúarmanna,

og er það, til þess að gjöra, nýtt, eða að minnsta kosti er það nýtt, að þessir menn þori að kveða upp úr með vantrú sína. Og geta menn í þeirri stöðu daglega haft áhrif á alþýðu. Fyrir utan „Dagsbrún“ og „Heimskringlu“ hjá Íslendingum vestan hafs er hjá oss hér heima fyrst og fremst „Fjallkonan,“ það blað, sem lengi á undan öllum öðrum hefir sýnt sig í því að vilja grafa grundvöllinn undan kristninni. Þar næst er „Þjóðviljinn“, sem í seinni tíð er greinilega farinn að sýna, hvað í honum býr í þessu tilliti. „Sunnanfari“ hefir aftr enn einu sinni sýnt, hverja virðing hann ber fyrir kristindóminum. Hið nýja blað „Stefnir“ stefnir auðsjáanlega í sömu átt. „Ísafold“ hefir til þessa verið fjarri því að fylla flokk vantrúarblaðanna, en nú er hún einnig farin að ráðast á útvirki kirkjunnar, helgidagana[1]. „Þjóðólfr“ er hvorki með né móti.[2] „Norðrljósið“ er eina blaðið hér heima, sem undir hinni nýju ritstjórn hefir lagt kristninni liðsyrði; en það blað lesa víst fæstir enn sem komið er. — Þá er nú „literatúrin“ ekki beisin. Það rit á íslenzku, sem mesta eftirtekt hefir vakið næstliðið ár og mest lof fengið í blöðunum flestum, þar á meðal „Lögbergi“, minnir mig, eru sögubrot nokkur eftir bóndamann í Þingeyjarsýslu: „Ofan úr sveitum“, léleg eftirstæling eftir þeim Kjelland og Gesti Pálssyni, allt í vantrúaráttina. Þetta er „Dagsbrún“ vor Austr-Íslendinga. Þá eru nú kvæðin hans Þorsteins Erlingssonar ásamt kristniboðssögunni hans. Þrennt er merkilegt við það: fyrst það, að slíkt skyldi vera samið; annað það, að slíkt skyldi vera tekið upp í blað, sem vill vera talið heiðarlegt; þriðja það—og það er allra merkilegast —, að það skyldi hljóta verðlaun einmitt fyrir guðlastið, og það hjá 40 menntamönnum. Slíks atburðar verðr ætíð getið í kirkjusögu Íslands sem votts um trúar- og siðferðis-ástandið um þessar mundir hjá ungum námsmönnum íslenzkum í Kaup-

1) Það, sem „Ísafold“ ritaði nýlega um fækkun helgidaga, er engan veginn ritað frá vantrúarinnar sjónarmiði; en sú skoðan, sem þar ræðr, er ólútersk og alveg andstæð því, sem kennt er í Ágsborgarjátning um sabbatsdag kristninnar og aðra kirkjulega helgidaga. Ritst.

2) Satt er það í orði kveðnu. En engu að síðr er það blað nú svo durgslega redígerað, svo fullt af gorgeir og ófrelsisanda og óþroskuðum skilningi á ýmsu því, er nú er uppi í tímanum, að vafasamt er, hvort það er hættuminna fyrir hið andlega ástand þjóðar vorrar en þau blöðin, sem beint eru á móti kirkju og kristindómi. Ritst.

mannahöfn: — þó að kristin trú standi nú raunar óhögguð fyrir öllu þessu, og þó að ýmislegt hinsvegar beri vott um vaxanda trúarlíf, þá verðr þó ekki annað sagt en hætta sé á ferðum. En af því leiðir, að menn kirkjunnar verða að halda saman og fast við aðalgrundvöllinn, sem er Kristr. Hitt ætti þeir að geyma, að stæla um einstök trúfræðis-atriði sín á milli. En hver góðr drengr verðr að leggja lið sitt fram til að vernda hjartað í hinni kristnu opinberan

## *BIBLÍAN EKKI AF MANNA VÖLDUM.*

(Kafli þýddr úr fyrirlestrum eftir próf. Henry Rogers: „*The Superhuman Origin of the Bible inferred from itself*“).

Biblían er ekki slík bók, sem maðrinn hefði viljað búa til, þótt hann hefði getað, né getað búið til, þótt hann hefði viljað. Þetta sést á svo mörgum einkennum ritningarinnar:

1. Frá upphafi til enda mælir hún í sífellu og með sterkri rödd gegn hjáguðadýrkan og kennir hvervetna háleita og göfuga *eingyðistrú*, sem ekki þokar fyrir neinum öðrum trúarbrögðum. Tilhnegingar manneðlisins sýnast allar vera í gagnstæðri átt og hallast algjörlega til skurðgoðadýrkunar; en hinum megin er biblían, og hún ein af öllum bókum með svo ákveðna rödd.

2. Annað það, sem einkennir biblíuna mjög sterklega, er það, hvernig hún leggr allt undir guðshugmyndina og kröfur hinnar almennu og andlegu stjórnar guðs. Þessi algjörða tilvitnan til guðs finnst ekki hjá nokkurri annarri þjóð, jafnvel ekki hjá Gyðingum sjálfum, ef hinir helgu höfundar eru undan skildir.

3. Eitt einkennilegt við biblíuna, sem lætr trúarbrögð þau, er hún kennir, standa ein sér á meðal hinna mörgu trúarbragða, sem kennd eru af mönnum, er það, að siðfræðin er algjörlega sett undir guðfræðina. Grundvöllr siðfræðinnar er allr lagðr í guðshugmyndinni og afstöðu vorri til guðs; og staðfestingar sínar allar fær hún frá guðs vilja. Hin miklu boðorð „síðari lögmálstöblunnar“ [1] byggjast öll á afstöðu þeirri,

1) Þ. e.: skyldurnar við mennina.

sem öll skepnan er í til hans, er í „fyrri töblunni“ heimtar hollustu af oss.

4. Eitt er enn einkennilegt við ritninguna, jafnt gamla sem nýja testamentið, sem ákaflega er undarlegt og alls ekki við að búast hjá nokkrum trúarbrögðum, sem upp eru fundin af mönnum. það er það, hve þögul biblían er, að því er snertir hinn tilkomanda og ósýnilega heim. þetta einkennilega bindindi er „ólíkt því, sem mönnum er títt“; því það er anda mannsins ósjálfrátt að þrá ljós inn í myrkr það, sem er yfir hinu komanda lífi, enda er þessari þrá ríkulega fullnægt í trúarbrögðum þeim, sem eflaust hafa uppruna sinn frá mönnum.

5. þá er eitt atriði enn, sem sýnir skýlaust hinn guðlega uppruna biblíunnar. það er það, hve ólíklegt það er, að maðrinn hefði ótilkvaddr farið að gefa aðra eins lýsing á sjálfum sér og þá, er vér finnum í þeim köflum biblíunnar, sem beinlínis hafa kenningar inni að halda (hinum dogmatisku köflum). Hér er hverri mannssál borið algjört gjaldþrot á brýn, þegar um fyrstu og helztu skyldur vorar við guð er að ræða, hvort heldr þær eru skynsemislegs eða siðferðislegs eðlis. Mönnunum er lýst svo, að þeir allir sé af náttúrunni óvinveittir guði og honum fráhverfir og því einnig undir reiði hans. það væri manninum ekki sjálfrátt að viðhafa aðra eins liti og þessa, ef hann sjálfr væri að draga upp mynd af sjálfum sér.

6. það má enn fremr bæta því við, að þá er maðrinn hefir tekið sér fyrir hendr, eins og svo iðulega hefir átt sér stað, að breyta trúarbrögðum biblíunnar eða afbaka þau, þá hefir það ætíð orðið „í mynd og líking“ þeirra trúarbragða, sem á sér hafa innsigli sjálfs hans, þar til loksins gyðingdómrinn hjá Gyðingum og kristindómrinn hjá kristnum mönnum líktizt svo mjög trúarbrögðum þeim, sem mótmælalaust eru fundin upp af mönnum, að ekki ætíð hefir verið auðvelt að sjá mismuninn.

* * *

Að því er gyðingdóminn snertir, þá átti þetta, sem próf. Rogers segir um hann, sér sérstaklega stað í fornöld hjá Gyðingum í Alexandríu á Egyptalandi. Hjá þeim blandaðist Gyðingatrúin grískri heiðinglegri heimspeki. Auðvitað átti þessi afbökun á gyðingdóminum sér líka stað meira eða minna hjá Gyðingum yfir höfuð þegar á Krists dögum, ef dýpra er litið í

sögu þeirra. Og að því er snertir kristindóminn, þá vitum vér, hvernig leit út með hann rétt á undan trúarbótinni á 16. öld, og hvernig hann þann dag í dag hjá kaþólskum mönnum er blandaðr heiðindómi, enda er ekki biblían hjá þeim hin eina uppspretta kenningarinnar. En það þarf ekki svo langt að fara eins og til kaþólskra manna, til þess að fá nœga sönnun fyrir því, að kristindómrinn breytist „í mynd og líking“ mannlegra trúarbragða, þegar hætt er við að fara eftir biblíunni. það eru nœgar sannanir fyrir því hvervetna, bæði hjá oss Íslendingum og annars staðar. það hefir eflaust margr tekið eftir því, hvernig maðrinn, svo framarlega sem hann sinnir trúarbrögðum nokkuð, undir eins og hann hættir að fara eftir biblíunni og láta hana kenna sér kristindóm, fer að búa sér til trúarbrögð, sem hann kallar að líkindum kristindóm, en sem ekki á meira skylt við kristindóminn en trúarbrögð margs heiðingjans. þau eru nákvæmlega „í mynd og líking“ hans sjálfs. því er það, að svo mikið ber á heiðindómi hjá oss, einmitt fyrir þá sök, að svo margir eru hættir að læra kristindóminn af biblíunni sinni, en fara eftir eigin tilfinningum og hugþótta og eftir því, sem þeir álíta sé dagtízka.

*N. Stgr. Þorláksson.*

---

*Synódus* var haldin í Reykjavík á venjulegum tíma í Júlímánuði, og stóð eftir vanda einn dag. Viðstaddir voru þar, auk stiftsyfirvaldanna, 19 prestvígðir menn, þar af 6 prófastar og 2 af kennurum prestaskólans, en leikmaðr enginn. Að biskupi meðtöldum eru 8 þeirra, er sátu á *synódus* þessari, alþingismenn; fyrir þá sök, að þessir menn þingsetunnar vegna voru staddir í Reykjavík um þetta sama leyti, varð hin kirkjulega samkoma Íslands í þetta skifti með fjölmennasta móti.

Við guðsþjónustuna á uudan *synódus* prédikaði séra Ólafr Finnsson, prestr í Kálfholti, og hafði Matt. 5, 14-16 fyrir texta.

*Synódus* í fyrra kvaddi 3 menn með stiftsyfirvöldunum í nefnd til þess að semja frumvarp til laga um kirkjur landsins og annað um skipulag og stjórn andlegra mála í hinni íslenzku þjóðkirkju. Nefndarmenn þessir voru þeir séra Eiríkr Briem, séra þorkell Bjarnason og séra þórarinn Böðvarsson. — Nefndin lagði nú fram frumvörp sín, og voru þau rœdd lítið eitt áðr

en samþykkt var, að leggja þau fyrir þessa árs alþingi. — Af hinum tveim frumvörpum er það um skipulag hinna andlegu mála að sjálfsögðu þýðingarmeira, og er þetta samkvæmt „Kirkjublaðinu“ aðalefni þess:

„Hin íslenzka þjóðkirkja stjórnar sjálf andlegum málum sínum, að því er snertir kenning, kirkjusiði, efling kristindómsins yfir höfuð og uppfræðing ungmenna í kristindómi; hún samþykkir og bækr þær, er að þessu lúta, en biskup landsins löggildir þær.“

„Yfirstjórn hinna andlegu kirkjumála hefir biskup landsins. Til ráðaneytis sér hefir hann *kirkjuráð*; eru í því stiftamtmaðr[1]) og þrír andlegrar stéttar menn, sem prestastefnan[2]) kýs til þess starfa til 6 ára.“

„Þá er biskupssætið verðr autt, skulu allir prófastar landsins, sem fá því við komið, og einn prestr og einn safnaðarfulltrúi úr hverju prófastsdœmi, er til þess skulu kosnir á héraðsfundum, eiga samkomu í Reykjavík og kjósa þar biskup, en konungr staðfestir kosninguna.“

„Á prestastefnu[2]) eiga sæti allir andlegrar stéttar menn landsins, þeir er í embættum eru, og einn leikmaðr úr hverju prófastsdœmi, sem til þess skal kosinn af héraðsfundi næsta á undan.“

Það er eins og hið sama hafi vakað fyrir nefndinni, sem komið hefir með frumvarp þetta, eins og ritstjórn þessa blaðs um árið, þegar seinustu biskupaskiftin urðu á Íslandi. Þeim brœðrum vorum í nefndinni kemr augsýnilega saman við oss um það, að kirkjan í heild sinni, en ekki neinn einstakr valdsmaðr, eigi að ráða því, hver sitr í hinu œðsta kirkjulega embætti í landinu. Og þar sem þessi síðasta *synódus* í heild sinni augsýnilega hefir verið nefndinni samdóma um þetta atriði, þá styrkir það oss í þeirri trú, að kirkjulýðrinn íslenzki í heild sinni eða með mjög fáum undantekningum sé að minnsta kosti nú samþykkr þeirri skoðun, sem vér á sínum tíma höfum haldið fram viðvíkjandi veiting biskupsembættisins. Um hitt geta auðvitað verið deild-

1) Hálf-leiðinlegt er að sjá „*stiftamtmanns*“-nafnið sáluga vakið upp aftr í þessu frumvarpi.

2) Er ekki óviðkunnanlegt að kalla *synódus* „*presta*stefnu“ eftir að leikmenn landsins eru farnir að fá að vera þar með prestunum?

ar skoðanir, hvort biskupsembættið er svo alveg ómissanda fyrir kirkju Íslands, eins og líka um það, hvort það fyrirkomulag, sem nefndin stingr upp á við kosning biskups, ef biskupsembættinu skal endilega haldið, er hið heppilegasta, sem hugsazt getr. En hvað sem um það kann að mega segja, þá má fullyrða, að bæði þessi tillaga og aðrar í frumvarpi nefndarinnar verða verulegar réttarbœtr fyrir kirkju Íslands, ef þær verða að lögum.

Nýlunda er það á þessari *synódus*, að einn prestr, séra Ólafr Ólafsson í Arnarbœli, flutti þar fyrirlestr. Talaði hann um *húsvitjanir* í þeim fyrirlestri.

Kristniboðsmálinu var hreift, en undirtektirnar voru daufar, að því er „Kirkjublaðið" segir, og engin ályktan tekin um það mál.

Hreift var samskotum til hinnar fyrirhuguðu skólastofnunar kirkjufélags vors hér í álfu, og samþykkt svolátandi tillaga:

„*Synódus* lýsir yfir því, að hún sé því hlynnt, að leitað sé samskota til skólastofnunar hins ev. lút. kirkjufélags Ísl. í V.heimi, og telr presta landsins sjálfkjörna flytendr þess máls í söfnuðunum."

Og var svo af þeim, er viðstaddir voru, skotið saman 70 krónum skólasjóði vorum til handa.

Fleiri mál hafði *synódus* þessi meðferðis, þótt eigi sé hér getið. — Nefndin, sem sett hafði verið á sínum tíma til að endrskoða handbók presta, hafði eigi lokið starfi sínu, eins og eigi var von. Og er vonanda, að enn líði nokkur ár áðr en þeirri endrskoðan verðr lokið, svo nefndin fái nœgan tíma til að kynna sér það, sem í þeirri grein er til fullkomnast í kirkjum annarra þjóða, áðr en hún kemr með tillögur sínar.

---

## *HÁSKÓLINN Í DORPAT.*

---

Hinn þýzk-lúterski háskóli í Dorpat í Rússlandi, sem langa-lengi hefir talinn verið meðal merkustu menntastofnana Þjóðverja, er nú svo gott sem af tekinn, með því hin rússneska harðstjórn hefir neytt hina þýzku kennara háskólans til að segja af sér og fara burt. Það er all-langr tími síðan stjórnin hóf of-

sókn gegn þjóðverjum, sem búsettir eru í hinum rússnesku fylkjum við Eystrasalt, bæði sökum þjóðernis þeirra og trúarbragða. Og endirinn er þetta, að þessari aðalmenntastöð þjóðverja þar í landi er gjörsamlega umturnað, svo að hér eftir verðr skóli þessi alrússneskr bæði að tungumáli og trúarjátning. Og jafnvel hinn litli bœr, þar sem þessi lúterski háskóli hefir staðið, fær ekki að halda sínu gamla nafni framar. Samkvæmt rússnesku stjórnarboði á hann hér eftir að heita *Jurjeff*.

þá er Pétr mikli forðum fékk þjóðverja til að flytja inn í Rússland, til þess að kenna hinum innlenda lýð mannasiði, voru þeim heitin sérstök þjóðernisleg og trúarbragðaleg réttindi. Út af þeim réttindum myndaðist Dorpat-háskólinn. En nú eru allar þær náðarveitingar fótum troðnar af hinni rússnesku harðstjórn, og gegnir furðu, að henni skuli geta haldizt annað eins uppi nú við lok 19. aldarinnar.

## *KIRKJUVÍGSLA.*

Hin litla kirkja safnaðarins í Selkirk, sem, eins og áðr hefir verið skýrt frá hér í blaðinu, um tíma var nærri því gengin úr greipum hinna réttu eigenda, hefir allt af síðan hún var reist hér um árið (1889) verið óvígð, þangað til nú rétt á eftir þessu síðasta kirkjuþingi að hún var vígð af varaforseta séra Friðrik J. Bergmann með aðstoð allra hinna prestanna, sem á þinginu höfðu setið. Kirkjuvígsla þessi fór fram að kvöldi hins 28. Júní. Hinn nývígði prestr, séra Jónas A. Sigurðsson prédikaði við þetta tœkifœri, og séra N. Stgr. þorláksson ávarpaði söfnuðinn, sem mjög hafði fjölmennt til guðsþjónustu þessarar, með nokkrum vel við eigandi orðum að skilnaði.

## FÓLKSTALSSKÝRSLUR

úr söfnuðunum, lagðar fram á kirkjuþingi 1893.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1. | Winnipeg-s...... | fermdir 1150; | ófermdir 385; | alls 1535 |
| 2. | þingvallanýlendu... | „ ... 77.... | „ .... 69.. | „ . 146 |
| 3. | Frelsis.............. | „ ... 236.... | „ ....207.. | „ . 443 |
| 4. | Fríkirkju ........ | „ ... 144.... | „ ....116.. | „ . 260 |
| 5. | Vídalíns.......... | „ ... 121.... | „ ....156.. | „ . 277 |
| 6. | Selkirk ............ | „ ... 25.... | „ .... 21.. | „ . 46 |
| 7. | Pembina .......... | „ ... 80.... | „ .... 55.. | „ . 135 |
| 8. | Víðiness .......... | „ ... 31.... | „ .... 32.. | „ . 63 |

| | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 9. | Brœðra.......... | fermdir | 85 | ófermdir | 64 | alls | 149 |
| 10. | Víkr............. | „ ... | 222.... | „ .... | 86.. | „ . | 308 |
| 11. | þingvalla.......... | „ ... | 70.... | „ .... | 61.. | „ . | 131 |
| 12. | Garðar........... | „ ... | 385.... | „ .... | 295.. | „ . | 680 |
| 13. | Brandon......... | „ ... | 50.... | „ .... | 50.. | „ . | 100 |
| 14. | Fjalla............ | „ ... | 67.... | „ .... | 42.. | „ . | 109 |
| 15. | St. Páls........... | „ ... | 64.... | „ .... | 57.. | „ . | 121 |
| 16. | Marshall.......... | „ ... | 28.... | „ .... | 24.. | „ . | 52 |
| 17. | Lögbergs*......... | „ ... | 39.... | „ .... | 36.. | „ . | 75 |
| 18. | Fljótshlíðar*....... | „ ... | 72.... | „ .... | 43.. | „ . | 115 |
| 19. | Grafton*.......... | „ ... | 35.... | „ .... | 33.. | „ . | 68 |
| 20. | Hallson*.......... | „ ... | 37.... | „ .... | 26.. | „ . | 63 |
| 21. | Spanish Fork*..... | „ ... | 52.... | „ .... | 34.. | „ . | 86 |
| 22. | Arness*........... | „ ... | 27.... | „ .... | 20.. | „ . | 47 |
| 23. | Lincoln*.......... | „ ... | 90.... | „ .... | 64.. | „ . | 154 |
| 24. | Vestrheims*....... | „ ... | 57.... | „ .... | 23... | „ . | 80 |
| | Samtals | fermdir | 3244 | ófermdir | 1999 | alls | 5243 |

þeir söfnuðir, sem merktir eru *, lögðu ekki neina fólkstalsskýrslu fram á kirkjuþingi; hér er því fólkstalan í þeim látin vera hin sama og í síðustu skýrslum. Hinir tveir síðast töldu söfnuðir tilheyra ekki kirkjufélaginu, en séra N. S. þorláksson þjónar þeim.

## SKÝRSLA

yfir sunnudagsskólahald í söfnuðum kirkjufélagsins frá byrjun 2. ársfj. '92 til loka 1. ársfj. '93.

| | Innritaðir nemendr. | Flest. | Fæst. | Meðal-tal. | Skóla-dagar. | Kennar-ar. |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Winnipeg-söfnuðr..... | 378 | 199 | 127 | 166 | 52 | 20 |
| Argyle-söfnuðir .... | 160 | 90 | 22 | 64 | 29 | 13 |
| Garðar-s. „ .... | 65 | 49 | 16 | | 35 | 5 |
| Víkr „ .... | 32 | 25 | 14 | | 20 | 1 |
| Vídalíns „ .... | | 25 | 12 | 19 | 18 | 4 |
| þingvalla „ (Eyford) | 16 | 13 | 4 | 10 | | |
| Pembina „ .... | 40 | 30 | 15 | 23 | 50 | 3 |
| Brandon „ .... | | 28 | 16 | 23 | 40 | 4 |
| Brœðra „ .... | 55 | 50 | 25 | 35 | 52 | 4 |
| Árness „ .... | 14 | | | | | 1 |

Vinr vor séra Mattías Jokkumsson, hið göfuga íslenzka þjóðskáld, hefir glatt oss Íslendinga hér í álfu með komu sinni vestr um haf (í Júlí) og dvöl sinni, þótt stutt væri, í nokkrum helztu byggðum vorum hér. Hann kom fyrst hingað til Winnipeg og tafði hér eina tvo daga áðr en hann fór suðr til Chicago

á heimssýninguna miklu. En lökum hálfum mánuði síðar hvarf hann aftr norðr hingað, var hér staddr á Íslendingadaginn 2. Ágúst og tók þátt í því hátíðarhaldi, ferðaðist síðan vestr til Argyle-byggðar, og þar á eftir suðr til Íslendingabyggðarinnar í Norðr-Dakota. Var honum hvervetna fagnað af almenningi og margar samkomur haldnar honum til heiðrs. Nú (seint í Ág.) er hann á leiðinni heim yfir hafið, og fylgja honum margar heitar blessunaróskir úr vestrbyggðum Íslendinga.

Séra Mattías er sami andans maðrinn og hann hefir ávallt verið. Þótt hann sé nú hátt á sextugsaldri, er hann ungr í anda, fjörugr og vonglaðr líkt og fyrst, er vér lærðum að þekkja hann í skóla fyrir 30 árum. — Hann var í sínu „elementi“ í hvert skifti, sem hann talaði opinberlega á þessari ferð sinni, því það var fremr öllu öðru vonarinnar og trúarinnar orð, sem hann bar hér fram í hinum mörgu rœðum sínum.

Lexíur fyrir sunnudagsskólann; fjórði ársfjórðungr 1893.

1. lexía, sunnud. 1. Okt.: Kraftr fagnaðarerindisins (Róm. 1, 8—17).
2. lexía, sunnud. 8. Okt.: Endrlausnin í Jesú Kristi (Róm. 3, 19—26).
3. lexía, sunnud. 15. Okt.: Réttlætingin af trúnni (Rómv. 5, 1—11).
4. lexía, sunnud. 22. Okt.: Kristilegt framferði (Róm. 12, 1—15).
5. lexía, sunnud. 29. Okt.: Bindindi, sprottið af kærleik til annarra manna (1. Kor. 8, 1—13).

Gjöf í skólasjóð frá Mrs. Dr. Halldórsson, Park River, $5.oo.

Sunnud. 9. Júlí (6. e. tr.) setti varaforseti séra Fr. J. Bergmann hinn nývígða prest séra Jónas A. Sigurðsson inn í prestakall hans við mjög fjölmenna guðsþjónustu í kirkju Vídalíns-safnaðar.



„SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Fifth Ave. N., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, N. Stgr. Þorláksson, Magnús Pálsson, Jón Böndal.

PRENTSMIÐJA LÖGBERGS — WINNIPEG.